# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., SEPTEMBER 1894. | 9.

## Trúarþíngið í Chicago 1893.

Það er eins og blöðin íslenzku hafi forðast að geta um trúarþingið á alheimssýningunni í Chicago seinast, og er það þó alveg nýr viðburðr í sögu mannkynsins. Áðr voru þessi trúarþing haldin til þess að slá fastri einhverri trúarsetningu, en fyrirdæma og bannfæra alla þá, sem ekki voru henni samdóma, stundum til að brenna þá á báli. Það var æfinlega einhver ein skoðun, sem átti að lemjast í gegn, en fótum troða allar aðrar skoðanir um sama efni. Hér er í fyrsta sinni þing sett í þeim tilgangi, að láta allar skoðanir koma fram og reyna að jafna þær, að reyna að finna eitthvað gott hjá öllum. Hin fyrri þingin vöktu hatur og ofsóknir, en þetta átti að vekja kærleika og umburðarlyndi trúflokkanna hvers við annan. Á þing þetta komu menn frá öllum heimsálfum af öllum hugsanlegum trúarflokkum, heiðnir og kristnir, úr Kína og Japan. Þar voru baptistar, buddhistar, kaþólskir og Confuciusarmenn; þar voru parsar og presbyterianar, Mahometsmenn, meþodistar og sátu allir hlið við hlið. Þar var Gibbons kardináli, yfirbiskup hinnar kaþólsku kirkju í Ameríku, klæddr hárauðri silkikápu með biskupum sínum og erkibiskupum; þar var erkibiskup hinnar grísku kirkju í marglitum hátíðaskrúða, með gullnar festar og gullna krossa. Þar voru æðstu prestar Buddha hvítklæddir og munkar buddhista í gulum skrúða. Þar var æðsti prestur Shinto-trúar frá Japan í dýrindis skrúða úr silki og flöieli. Þar voru kínverskir mandarin-

ar. Þar voru menn með „túrbön", með svartar, eða rauðar, eða grænar húur, eða þá berhöfðaðir, eftir því sem siðr þeirra var. Þar voru og konur merkar úr ýmsum áttum, sumar prestar, sumar nunnur eða abbadísir. Einhver helsti forgöngumaðr samkomu þessarar var Dr.Barrows, Unitaraprestr. Hinir merkustu vísindamenn, stjórnfræðingar og guðfræðingar frá öllum löndum sendu þinginu lukkuóskir. Dr. Barrows hefir samið bók um það allmikla. Í bók þessari koma fram ræður þeirra, er töluðu á þinginu. Skiftist þingið í margar deildir og hafði hver hinna fjölmennustu trúflokka sitt þing.

Sem sýnishorn af ræðum þeirra skal ég koma með fáeinar setningar:

Prófessor D'Vivedi, hindúi frá Bombay mælti á þessa leið: „Það er óhætt að bera það fram, og ómótmælanlegt, að enginn indverskr skurðgoðadýrkari trúi því, að tré- eða stein- eða málm-myndin, sem hann krýpr á kné fyrir sé guð sinn. Hann skoðar myndina sem líkingamynd (symbol) guðs þess, sem er í allri náttúrunni og notar hana til þess, að festa hugsun sína við guð, en að því búnu getr hann gjarnan fleygt henni burtu."

Á líkan hátt talar J. J. Modi, parsatrúar-maðr frá Bombay um ástæður þær, sem leiða parsa til þess, að sýna eldinum lotningu (sem er alt annað en tilbeiðsla, að því, er hann segir). Hann segir, að parsar skoði eldinn, sem ímynd ljómans, dýrðarinnar og ljóssins, sem hina fyllstu líkingu guðs, er á göfugastan hátt og fyllstan máta geti sýnt oss guðdóm hans.

Hindúa-munkrinn Sami Vivekananda beinir að kristnum mönnum þessum orðum: „Hversvegna fara kristnir menn til kirkju? Hversvegna er krossinn helgr? Hví snúa menn augum til himins, er menn biðjast fyrir? Hví eru höfð líkneski í hinni kaþólsku kirkju? Hví eru þessar myndir í huga prótestanta er þeir biðja? Bræðr mínir! Vér getum ekki talað um neitt öðruvísi en í líkamlegri mynd fremr, en vér getum lifað án þess að anda." Ræðumaðr þessi, Sami Vivekananda, er af æðsta flokki brahmana og flytr rétttrúnað Hindúa. Var hann einn af helstu mönnum trúarþingsins, og sást oft í gestaboðum höfðingja í Chicago. Hann byrjaði ræðu sína á þessa leið: „Þrjú trúarbrögð eru nú í heiminum, sem vér höfum erft frá elstu tímum; eru þau: Brahmatrú, Zóróasterstrú og gyðingatrú. Af þessum þremr trúbrögðum hefir Brahmatrú ein haft fullan viðgang alt til þessa, er hún oss opinberuð í trúbókum vorum, Vedabókunum. Þær kenna oss

meðal annars, að sköpunin sé án upphafs og enda, að sála mannsins sé eilíf og ódauðleg."

Hindúar vilja ekki nefna menn syndara, heldr segja þeir: „Þér eruð börn guðs, hluttakendr ódauðlegrar sælu, helgar og fullkomnar verur, þér eruð guðir á jörðu. — Yfir öllum þessum lögum náttúrunnar, sem skapa hlutföll efnisins og aflsins er 'hinn eini' sem býðr vindinum að blása, eldinum að brenna, skýjunum að rigna og lætr dauðann stíga hröðum fetum yfir jörðina. Hann er allsstaðar, hinn ólíkamlegi, hinn almáttki og miskunnsami. Þú ert vor faðir og þú ert vor móðir, þú ert vor elskaði vinr. Þú, sem ert uppruni styrksins, gef þú oss styrk: þú, sem berð byrðar alheimsins, hjálpa þú mér til þess að bera hinar smáu byrðar lífs þessa." Þannig kváðu Rishis í Vedabókunum, þeir sögðu og að menn skyldu tilbiðja hann í kærleika. „Hann á að tilbiðjast, sem hinn elskulegi, kærari, en nokkuð annað í þessu lífi eða öðru." Brahmatrúin, trúbrögð Hindúa eru ekki innifalin í því að trúa heldr í því að vera og verða, að ná til guðs, að sjá hann, að verða fullkominn eins og faðirinn á himnum er fullkominn. Þegar sálin verðr fullkomin, þá verðr hún eitt með Brahma" (= guði). (Sbr. „ég og faðirinn erum eitt," segir Kristr).

Svo fer herra Vivekananda að tala um trúarbrögð hinna fáfróðari og segir það hiklaust, að engin fjölgyðistrú sé á Indlandi. Ef menn standi hjá og hlusti á guðsþjónustur þeirra Hindúa, þá heyri menn dýrkendr tileinka myndum þessum og bílætum alla eiginlegleika guðs. En fyrir augum Hindúa eru öll trúbrögð tilraunir manna að nálgast guð á margvíslegan hátt .... Drottinn hefir opinberað Hindúum það, þegar hann íklæddist Krishna í holdinu, að „hann væri í öllum trúbrögðum sem þráðr, er rent er í gegnum perlur, og hvar sem menn sjá yfirtaks helgi eða yfirtaks afl lyfta og hreinsa mannkynið, þá skuluð þér vita að ég (guð) er þar." Þessari göfugu ræðu sinni lauk hann með bæn er byrjaði þannig: „Ó! að hann, sem er Brahma Hindúa, Ahura Mazda Zóróastersfylgjenda, Buddha Buddhatrúarmanna, Jehovah Gyðinga og hinn himneski faðir hinna kristnu manna. Ó! að hann veiti yðr styrk til þess að fullkomna yðar göfugu hugmynd."

Prófessor M. N. D'Vivedi segir skýrt og greinilega frá hinum 6 stigum á þroskun trúar sinnar frá því, er fyrst var farið að skrifa Vedabækurnar. Hann sýnir fram á, að höfundar Vedabókanna hafi svo háleitar hugmyndir um guð, um „hina einu tilveru," um „heild alls þess

sem er,“ að þeir hljóti að vera miklu æðri, göfugri og meiri menn, en hinir einföldu, fáfróðu, náttúrudýrkandi hjarðmenn, sem fræðimenn Vestrlanda segja þá vera.

Advaida heimspeki prófessors D'Vivedi's hljóðar á þessa leið: „Skoðaðu aðra menn sem sjálfan þig. Hin algilda heimspeki gerir engan mun á flokkum (castes) eða játningum, á lit manna eða löndum, á kyni eða mannfélagi. Aðalatriðið í trú þeirri er hinn hreini og algildi kærleiki til allra, frá hinum smærsta maur til hins stærsta manns.“ Svo tekr hann setningu úr Bhagavata um umburðarlyndi í trúmálum, og er hún þannig: „Tilbeiðslan nær til guðs, á hvaða hátt, sem henni er fyrir komið, eins og árnar allar renna í hafið, hvar sem uppspretta þeirra er.“ Próf. D'Vivedi segir, að aðalatriði Brahmatrúar séu:

1. trú á andlegt frumefni í náttúrunni og á holdtekjuna; og
2. algjört umburðarlyndi í trúmálum og hlýðni við hinar 25 siðareglur.

Þá skýrði Protap Chunder Mozoomdar frá Brahmo-Somaitrúnni, sem kölluð hefir verið unitarismus Asíu eins og Buddhatrú hefir verið kölluð protestantismus, en Brahmatrúin kaþólska Austrlanda. Meðal annars fórust Mozoomdar orð á þessa leið:

„Þegar ég íhuga félagsástandið í Európu og Ameríku, þá hefi ég oft orðið mjög kvíðafullr fyrir yðr, störf yðar eru svo margföld og svo mikil, að þau ætla alveg að gleypa yðr, og sökum þess hafið þér engan tíma til þess, að íhuga hina mikilvægu spurningu um endrfæðinguna, um helgun einstaklinganna, um prófið og dóminn og um gildi mannsins fyrir guði. Þetta eru aðalspurningar lífsins.“

Einir 12 höfuðprestar Austrlanda skýrðu kenningar Buddhatrúar. Prinsinn Chandradat Chudhadharn skýrði hana eins og hún kemr fyrir í Siam. Siamsbúar trúa því, að alt hafi skapast af Dharma (náttúrunni), en sjálf sé hún mynduð af efninu og andanum, og er hvorutveggja eilíft, en samsett, uppleyst og samsett aftr í endalausri keðju. Hin fjögr meginsannindi, sem hinn miskunnsami og alvitri drottinn Buddha kennir, eru þessi:

1. er öll tilveran vond af því hún er háð breytingu og hrörnun;
2. uppruni hins illa er löngun eftir þeim hlutum, sem breytast og hverfa;
3. þetta hið illa og afleiðingar þess er ekki óhjákvæmilegt, því ef

að vér viljum þá getum vér öðlast „nirvana,“ þar sem hvorutveggja hættir (ɔ: vér hættum þá að líða og þjást).

4. Með því að fylgja vissum reglum getum vér náð þessu takmarki, án þess oss skeiki. Þessar reglur eru 8: réttr skilningr, eða rétt trú; réttar ályktanir, eða vitrleg framkvæmd trúarinnar í lífinu; rétt tal, eða sannleikr í öllu því, sem vér tölum eða gjörum; réttar hvatir, eða að hafa ætíð tilhlýðilegan og heiðarlegan tilgang; rétt verk, að vinna aldrei það sem ilt er; rétt hlýðni við skylduna; rétt minni, eða að muna rétt sína undangengnu breytni; réttar hugleiðingar, eða að halda huganum föstum við það, sem satt er og gott. Alt þetta leiðir til „nirvana“-hvíldarinnar, sem er það ástand þegar allri þjáning er lokið.

Enn skýrari grein gerir H. Dharmapala fyrir Buddhatrú, er hann skrifari fyrir Maha-Bodhi-félagið á Ceylon og segir meðal annars: „Í Buddhatrú er enginn pessimismus (að sjá hina svörtu hlið á öllu), því að hann leggr fast að lærisveinum sínum, að þeir skyldu forðast það fremr öllu öðru, að segja, að lífið sé ekki þess vert að lifa. Bróðrkærleikrinn er ein af aðalkenningum Buddha, menn eiga að elska alla, bæði menn og dýr. Mönnum er kent, að elska allar verur eins og móðirin elskar barnið sitt.“

Á nokkur hundruð ára fresti á einlægt að koma nýr Messías eða Buddha. Nirvana yfirgengr alt, sem menn geta hugsað sér, „það er eilífr friðr.“ Hinn hreini og fullkomni maðr lifir í nirvana-sælu á þessari jörðu.

Herra Dharmapala segir, að hvar, sem Buddhatrú hafi verið, þá hafi þjóðirnar drukkið inn anda hennar og orðið þýðari og mildari. Drykkjuskapr og önnur ósiðsemi hætti, menn hættu að slátra dýrum, og stríðin komu varla nokkurntíma fyrir. Hann kemr fram með ýmsar kenningar Buddha til samanburðar við tilsvarandi staði úr fjallræðunni, svo sem þetta:

„Hatr sigrast aldrei með hatri, en hatr sigrast með kærleika. Þetta er gamalt lögmál .... Sigrið reiðina með kærleika. Sigrið hið illa með hinu góða. Sigrið ágirndina með örlæti. Sigrið lygarann með sannleika. Hinir sönnu fjársjóðir eru þeir, sem menn afla sér með gjöfum og guðhræðslu, hófsemi og stjórn á sjálfum sér. Sá fjársjóðr, sem þannig er geymdr, er óhultr og glatast ekki.“

Þá eru hinir japönsku buddhistar segir Yoshigiro Kawai frá hinum 16 trúflokkum þeirra og 30 smærri trúflokkum. Hið æðsta mark og mið þeirra er Buddha, eðr upplýsingin. Buddha uppfyllir tímann og rúmið og alla hluti, hann er allsstaðar nálægr. Séra Zitzuzen Ashitsu talaði um hið þrefalda eðli Buddha. Hið fyrsta ólíkamlegt, eilíft, allsstaðar nálægt, óumbreytanlegt. Hið annað, er öðlast má með því að vaxa í dygð og þekkingu og mannúð. Hið þriðja er það, er opinberast veru hverri til að upplýsa hana. Hinn eini munr á mönnum og Buddha er sá, að menn skortir sjálfs mentun.

Þá er Jainstrúin, skýrði Mr. V. A. Ghandhi frá henni, maðr fríðr sýnum, frá Bombay. Þeir trúa, að efnið og sálin sé eilíf, að háleit vera liggi til grundvallar fyrir öllu, bæði því sem er vitundarlaust og hefir sjálfsvitund, og sé hún hin eilífa orsök að öllum breytingum, öllu lífi, og þessi vera sé kölluð guð. Þeir trúa á sálnaflakkið á Karma, eðr endrgjald vondra verka og góðra í öðru lífi. Hafa þeir oft verið kallaðir guðleysingjar, en það er ekki rétt.

Þá er Confucianism, og skýrði Hon. Pung Kwang Yu greinilega frá þeim flokki; var hann sendr á þingið af keisara Kínaveldis einmitt í þeim tilgangi. Pung Kwang Yu er vel mentaðr maðr og segist ágætlega frá. Hann segir meðal annars: „Það er að eins einn maðr, sem er viðrkendr sem kennari fyrir mannkynið öld fram af öld, í öllum mannlegum fræðum, það er að eins einn ókrýndr löggjafi, sem hefir verið viðrkendr og virtr af konungum og ráðgjöfum þeirra, af einni kynslóðinni eftir aðra, og maðr sá er Confucius. Með ritum sínum hefir hann safnað saman allri speki forfeðranna. Hin fimm náttúrlegu sambönd í mannlífinu (skyldurnar) eru þessi: Yfirvöld og undirgefnir, foreldrar og börn, maðr og kona, eldri og yngri bræðr og vinir. Gjörið eigi öðrum það, sem þér eigi viljið að aðrir gjöri yður.“

Fylgjendr Confuciusar halda ekki fram neinum kenningum um annað líf, en neita því ekki heldr. Confucius segir sjálfr: „Vér getum ekki einu sinni uppfylt skyldur vorar við mennina og hvernig getum vér þá uppfylt skyldur vorar við andana. Mr. Pung gjörir annars ekki meira úr kraftaverkum, en menn alment gjöra úr drauga- eða forynju-sögum.

Þá er parsatrúin, öðru nafni Zóróasterstrúin. J. J. Modi frá Bombay skýrði hana. Segir hann, að trú sú sé eingyðistrú (áðr hafa menn alment talið hana tvígyðistrú). Hann segir, að ljósguðinn Ahura-

Mazda sé hinn alvitri drottinn, upphaf allra orsaka, skaparinn, er stýri hinum líkamlega og andlega heimi, uppspretta ljóssins hins líkamlega og andlega eðr siðferðislega. Hin tvö frumefni ilt og gott, Angro-mainyush (Ahriman) og Spenta-mainyush eru bæði undirgefin Ahura-Mazda. Hreinleikinn, bæði andlegr og líkamlegr er lögmál mannlífsins. Menn eiga að vera hreinir í hugsunum orðum og gjörðum. Þrem dögum eftir dauðann er sála mannsins dæmd við brúna Chinevat [svarar til bifrastar Norðmanna], þar eru verk hans lögð á vog og séu hin góðu verkin þyngri, en hin vondu, þá fer maðrinn yfir brúna inn í ríki himnanna; en séu hin vondu verkin þyngri, þá er honum steyft niðr í djúp helvítis. Ef að góðu og vondu verkin eru jafn þung, þá er maðrinn sendr í nokkurskonar hreinsunareld, er kall ast Hamast-Gehan.

Þá er Shintotrúin, sem er ríkiskirkjan í Japan. Matsugama greinir hina upprunalegu japönsku trú, sem framsett er í hinum helgu bókum þeirra, frá hinni seinni samblendni við Buddhatrú. Annar Japani segir: „Shinto-trú hefir engar ákveðnar siðareglur, engar ákveðnar trúsetningar, því að lögmál guðs er ritað í hjörtunum. Þessi íbúð guðs er hið lifandi lögmál, er stýrir siðferðinu. Ákveðnar bænir eru ekki mikils virði, en þó hafa Japanar bænagjörðir.

Merkilegast var að hlusta á séra Reuchi Shibata, hinn 11. forseta Zhikko-flokksins, sem er ein grein af Shinto-trúnni. Það er almenn trú Shinto-manna, að ein kynslóð guða hafi í upphafi skapað himin og jörð og alt það, sem í þeim er, og orðið forfeðr Japana; en tveir af guðum þessum, karlguð og kvennguð, hafi verið ættfeðr keisaraættarinnar í Japan. Zhikko-flokkrinn trúir á einn, upphaflegan, eilífan, allsherjarguð, sem íklæddist holdi kvennguðs og karlguðs og eru svo þessir þrír guðir, guðir sköpunarinnar. Þeir gátu svo af sér guðaflokk, sem aftr fæddu af sér Japan, sól og tungl o. s. frv. Höfundr trúflokks þessa fékk opinberanir þessar á fjalli einu, „Fuji," og trúa menn síðan, að það sé bústaðr guðs og heili heimsins.

Svo segir séra Shibata: „Það er vilji guðs og mark og mið trúmannanna, að öll börn hans á jörðunni lifi saman í friði og eindrægni og gleði, en þó eru mörg þau löndin, som líta hatrsaugum hvert til annars og grípa hvaða tækifæri, sem þau geta, til að ráða hvort á annað .... En það er mín hjartans ósk, að sá tími komi bráðlega, að allar þjóðir jarðarinnar sameini herlið sitt og flota til þess, að halda

reglu á jörðunni, og hindra eitt ríkið frá því, að fara í ófrið við annað. Þjóðirnar ættu og að setja einn æðsta dómstól til þess, að skera úr þrætumálum milli þeirra.... Þá loks kemr alheimsfriðrinn, sem virðist vera hið síðasta mark og mið hins kærleiksríka guðs.“

Þá voru Gyðingar mannsterkir á fundinum. Dr. Mendes segir, að hinir fornu Gyðingar hafi flutt þá kenningu, að mennirnir allir væru bræðr, allir guðs börn. Hann segir, að þeir trúi því alment enn, að Kristr eigi eftir að koma, og þeir eigi að stofna voldugt ríki á Gyðingalandi.

Mahómetstrúarmenn voru fámennir, því að Tyrkjasoldán fyrirbauð þeim að sækja fundinn. En amerikanskr maðr, Mohammed Webb, sem nýlega hafði tekið trú þeirra, mætti af þeirra hálfu. Sagði hann, að þeir tryðu á einn guð og að Mahómet spámaðr hans hafi verið guðdómlega innblásinn. Aðalskyldur þeirra væru: hreinlæti, andlega og líkamlega, bænagjörðir, föstur, bróðrkærleiki, ölmusugjafir og pílagrímsgöngur. Enn fremr segir hann, að enginn sé neyddr til að trúa neinu, er stríði móti mannlegu viti og skynsemi.

Einhver tilkomumesti maðrinn á trúarþinginu var erkibiskup Dionysios Latas, úr grísku kirkjunni, frá eyjunni Zante; sagði hann, að á Grikklandi hafi hin kristna kenning fundið frjófsamastan jarðveg, enn þá betri en í öðrum löndum norðrálfunnar.

Þar var kardínáli Gibbons helstr maðr kaþólskra. Sagðist hann meira dragast að hinni kaþólsku kirkju fyrir góðgjörða-stofnanir hennar, en fyrir einingu trúarinnar, eða hið háleita siðgæði eða útbreiðslu hennar meðal þjóðanna, eða hina postulalegu ættfærslu hennar, alt þetta hið síðar nefnda sagði hann, að hefði ekki önnur eins áhrif á sig og góðgjörðastofnanirnar.

Þar var fjöldi manna úr hinum prótestantísku trúfélögum, úr ensku kirkjunni, úr presbytera-kirkjunni, meþodista-kirkjunni og fl.

Það merkilega við þing þetta var það, að hér komu menn ekki saman til þess að rífa hver annan niðr, heldr til að sýna og skýra trú sína svo, að sannleiksgildi hverrar fyrir sig yrði prófað. Eðlilega hefir hver haldið fram sinni skoðun og suma kann ske langað til að senda trúarandstæðinga sína norðr og niðr, en kurteisin réði hér meiru og menn hafa að líkindum séð það, að þó að mönnum finnist ekki mikið um að senda mann og mann til helvítis, þá fer það þó eitthvað að raska alveldis tign og gæsku skaparans, að senda þangað í einu, segj-

um 12—1,300,000,000 (tólf til þrettán hundruð miljónir). En afleiðingarnar hljóta að verða miklar. Það hljóta að opnast upp augun fyrir alþýðu, að það eru fleiri götur en ein, sem liggja að þessari „himnesku Jerúsalem,“ fleiri en einn vegr til guðs. Hann er eins og miðpunktur alheimsins, út frá þessum miðpunkti gengr óteljanlegr geislafjöldi í allar áttir, eins og sólirnar senda geisla sína út frá sér og hver geisli er gata eða stígr til guðs.

# Ptah-hotep eða hið elsta rit í heimi.

Hið elsta rit í heimi eða kann ske réttara: rit það, sem enginn með réttu getr vefengt, er nú eign þjóðbókasafnsins í París. Það er skrifað á „papyrus“ og er mjög ellilegt, með helgirúnum hálffleygmynduðum, og er ritað af egyftskum manni, Ptah-hotep að nafni, rúmum 3,300 árum fyrir Krists burð.

Sjálft handritið, eins og það nú kemr fyrir, er frá tímabili 12. konungsættarinnar, um 2,200 árum fyrir Krist; en aðgætandi er, að rit þetta er eftirrit af enn eldra riti, sem ritað hefir verið á tímum 5. konungsættarinnar, og eftir tímatali próf. Brugsch's, sem er einn hinna merkustu egyftsku fornfræðinga, getr það ekki verið yngra, en frá því um 3366 fyrir Krist. Segir höfundrinn, að hann hafi skráð rit þetta á dögum Assa konungs, er var einn af hinum seinni konungum 5. ættarinnar. Ritið er því skráð einum 2666 árum áðr, en nokkur bók ritningar vorrar var rituð, ef vér setjum aldr elstu bóka hennar til 700 árum fyrir Krist, það er ritað einum 1000 árum áðr, en Nóaflóð átti að hafa skeð.

Ef að trúa má orðum Ptah-hoteps, þá hefir hann verið allra mesti maðr. Í formála ritsins kallar hann sig: „hinn göfuga herra, hinn guðdómlega föðr, elskaðan af guði, son konungsins, frumburð ættar sinnar,“ og svo lýkr hann formálanum með þessum orðum: „Hún [hlýðnin] hefir valdið því, að ég er orðinn 110 ára gamall.“ En aðgætandi er, að það var títt hjá Egyftum að hafa stór orð og gjöra sem mest úr sjálfum sér, svo að þetta verðr í stuttu máli hið sama og hann hefði sagt, að hann væri af hinni ríkjandi konungsætt.

En það er ljóst af ritinu, að hann hefir verið í miklum metum. Hann kallar sig „yfirmann,“ og á ritinu sést hvaða skyldum hann hefir haft að gegna. Hann hefir dæmt mál manna, tekið á móti bænarskrám, gætt borgaralegra réttinda manna á miklu svæði, tekið á móti og geymt mikinn forða af korni, víni og öðrum vistum. Til þess hafði hann geymslubúr mikið og sterkt, og mátti þar enginn inn fara án þess hann gæti sýnt innsigli hans. Hann hefir og haft á því vandlegar gætur. Segir hann frá hvernig gæslumennirnir skuli sitja eðr standa, og gefa gætur að hverjum aðkomanda og vita hvert sé erindi hans.

Bók þessi er eiginlega siðferðislegs efnis. Hún er eins konar handbók með siðareglur, sem hver egyftskr maðr átti að hafa, er lifa vildi góðu lífi, þóknanlegu guði og mönnum. Og ef menn lesa bókina, þá sjá menn glögglega ýmsa siðu og háttu þeirra, hvernig þeir fóru að ala upp börn sín, um skyldur hinna ríku, um starfsemi í lífinu, um borðsiði og fl.

Og þessar hugmyndir, þessar siðareglur, sem Ptah-hotep setr fram 3360 árum fyrir Krist, þær hafa komið til hans frá hinum fyrri kynslóðum, verið æfagamlar, þegar kann ritaði þær upp, fleiri hundruð, ef ekki fleiri þúsund ára gamlar, og gengið mann frá manni, lið frá lið, og sýnir það, að siðgæðishugmyndir manna hafa verið til löngu, löngu áðr, en ritningin okkar kom með þær.

Ptah-hotep segir: „Ég hefi myndugleika til að skýra yðr frá orðum þeirra, sem hafa heyrt ráðleggingar manna frá fyrri tímum. Kennið mönnum spakmæli hinna fyrri tíma. Enginn skyldi bæta við, eðr taka úr orðum föðr síns, en kenna samkvæmt orðum hinna vitru“.

En til þess, að síðr yrðu breytingar á, setr hann reglur sínar í ljóð, og segir svo: „öll þeirra orð skulu nú óbreytt flytjast yfir jörðina að eilífu.“

Eitt af því, sem rit þetta talar um, er staða konunnar á heimili sínu, og sést af því, að hinir fornu Egyftar hafa haft konuna í hávegum frá ómunatíð. Ptah-hotep segir:

„Ef þú ert vitr, þá lít þú eftir húsi þínu, elska þú konu þína fölskvalaust. Láttu hana vera sadda, láttu hana hafa föt, vertu góðr við hana og lát að óskum hennar meðan hún lifir .... Ef þú tekr þér konu, þá gjörðu hana ánægðari en nokkurn annan samborgara. Hrind þú henni ekki frá þér, en gjörðu það, sem henni geðjast, og þegar hún er ánægð þá mun hún meta og virða orð þín.“

Af öðru forn-egyftsku riti sjáum vér, hve konau hefir verið í miklum metum höfð og eins hitt, að þá hafa börn gengið á skóla, þótt suma kunni að furða það nú. Khonshotpu spekingr, er uppi var nokkru seinna en Ptah-hotep, segir til sonar síns: „Það var sjálfr guð, sem gaf þér móðr þína. Frá byrjun hefir hún borið með þér byrðar þínar, án þess ég hafi getað létt undir þær með henni. Í þrjú ár fóstraði hún þig, og þótt þú yxir og yrðir erfiðari, leyfði hún sér aldrei að segja: „Hví skyldi ég vera að gjöra þetta?“ Hún fór með þér til skóla á hverjum degi. En nú, er þú ert vaxinn og hefir fengið konu og hús, þá skaltu muna eftir, hve þú varst ósjálfbjarga í bernsku þinni, muna eftir allri þeirri umönnun, er móðir þín hefir veitt þér.“

Oss hættir oft til þess, að hugsa oss allar hinar fornu þjóðir viltar og tryltar og menningarlausar, að undanteknum Grikkjum og Rómverjum, en Ptah-hotep sýnir oss Egyftann eins og hann þá var, og sýnir oss, að hann hafi tekið tillit til velferðar annara, hafi verið mjúkr og þýðr, góðgjörðasamr og örlátr, svo að það er óvíst, að vér í því stöndum honum nokkuð framar, eftir þessi nær því sex þúsund ár, sem liðin eru síðan. Það er sannarlega furðanlegt, hvað sumar kenningar hans eru göfugar, svo sem þetta:

„Vertu ekki reiðigjarn við nágranna þinn. Betra er kurteisissvar, þegar mönnum mislíkar, en ruddaháttr.

Hafðu ekki eftir neinar öfgar; hlusta þú eigi á þær. Það er nokkuð, sem sloppið hefir fram af hvatorðum vörum. Ef að það er endrtekið, þá lít þú til jarðar og heyrðu það ekki; segðu ekkert um það.

Ef að þú ert höfðingi friðarins, þá hlusta þú á bónleitanda. Segðu ekki við hann: „Þú ert þegar búinn að segja þetta.“ Ef þú ert blíðr við hann, þá kemr hann fram ræðu sinni....“

Ef að þú sitr að borði með mönnum, sem þér eru meiri, þá taktu við því, sem þeir gefa þér, og hneigðu þig til jarðar. Virtu fyrir þér það, sem sett er fram fyrir þig, en bentu ekki á það og horfðu ekki oft á það, sá er lýtaverðr, sem út af því bregðr.

Ef að þú vilt kurteis vera, þá skaltu ekki kalla á þann, sem þú ávarpar. Tala þú við hann án þess að móðga hann eða gjöra hann leiðann. Byrja þú ekki á kappræðu við hann fyrri, en hann er kunnugr orðinn umræðuefninu. Ef að hann lætr bera á fávisku sinni og gefr þér tækifæri að óvirða sig, þá skaltu fremr sýna honum kurteisi.

Trufla þú ekki mikinn mann. Veiktu ekki athygli þess, sem er önnum kafinn.“

Sannarlega hafa þeir verið kurteisir þessir Egyftar, það sér maðr á þessu. Ptah-hotep talar og um mörg efni önnur. Hann hvetr foreldra að venja börn sín við hlýðni, að heiðra föðr sinn, að laga breytni sína eftir lögmáli guðs. Hann talar um skyldur þær, sem liggja á miklum mönnum við þá, sem undir þá eru gefnir. Hann lýsir þörfinni á því, að stjórna sjálfum sér og hve áríðandi það sé, að vera hreinn og beinn í orðum og framgangsmáta.

„Breyttu við hina fávitru sem hina lærðu, því að hlið þekkingarinnar ættu aldrei lokuð að vera, og enginn maðr er algjörlega fullkominn í nokkru.

Sá, sem víkr frá sannleikanum er fyrirlitlegr.

Farðu vel með þá, sem undir þig eru gefnir, það er skylda þeirra sem eru í náð hjá guði.

Hinn lipri maðr sigrar alla örðugleika.

Gjör þú þá að vinum þínum, sem eru þér tryggir meðan þú ert í lágri stöðu.“

Vér sjáum það fljótt, að reglur þessar innibinda í sér hina sömu speki, og felst í spakmælum annara þjóða, en Ptah-hotep er að því leyti ólíkr öðrum spekingum, hvað heimspeki hans er óbrotin og blátt áfram. Hann hugsar og talar eins og maðr sá, sem byggir allar skyldur sínar á hlýðninni við guð. Það er alþýðleg hvers-dags-heimspeki um heimilisstörf og dagleg viðskifti manna.

Merkilegt er það, hve Ptah-hotep leggr algjörlega áherzlu á eingyðistrú. Hann segir menn eigi að gjöra hitt eðr þetta af því, að guð vilji það, að menn megi ekki gjöra eitt eðr annað, af því að það stríðir á móti vilja guðs. Allsstaðar liggr til grundvallar hjá honum hugmyndin um einn guð, sem verði að samþykkja allar gjörðir manna. Af þessu hljótum vér að álíta það, að þó að fjöldinn alþýðunnar hafi trúað á marga guði, er prestarnir hafi haldið að þeim og flækt og fléttað, eins og þeirra er vaninn, þá voru þó til menn svo djarfir og svo skarpvitrir, að þeir létu ekki teyma sig þannig, heldr leituðu og fundu sannleikann, að guðirnir eru ekki margir heldr að eins einn.

Enn er það eftirtektavert, að margar siðareglur Ptah-hoteps koma mjög vel heim við setningar úr ritningunni, og er því svo varið víða að menn finna hinar sömu setningar í fornbókum þjóðanna, sem koma

fram í trúbók Gyðinga. Sem dæmi upp á þetta tökum vér fáeinar setningar:

| Ritningin segir: | Ptah-hotep segir: |
| --- | --- |
| Kenn þeim unga þann veg, sem hann á að ganga, og þegar hann eldist, mun hann ei af honum beygja. Orðskv. 22, 6. | Hlýðinn sonr er líkr fylgdarmanni Horusar; hann er sæll, þegar hann hefir verið hlýðinn. Hann kennir börnum sínum hinn sama lærdóm. |
| Fagna ekki yfir falli þíns óvinar og lát ei hjarta þitt hlakka yfir því, er hann steypist. Orðskv. 24, 17. | Reiðstu ekki við andmæling þinn, þótt hann hafi á röngu að standa; hann berst á móti sjálfum sér. Skemtu þér ekki við hrakfarir hans, að gjöra það er fyrirlitlegt. |
| Snauðr verðr sá, sem erfiðar með slakri hönd; en hönd hins iðjusama gjörir hann ríkan. Orðskv. 10, 4. | Starfsemin veitir manni auðæfi, en auðæfin þverra þegar starfsemin hættir. |
| Mjúkleg svör stöðva reiði, en mæðulegt orð upp vekr þykkju. Orðskv. 15, 1. | Þinn málstaðr verðr betri, en mótstöðumanns þíns, ef að þú þegir þótt hann neyti vondra orða. |

Þarna geta menn séð líkinguna, en er menn bera þetta saman, þá sjá menn að Ptah-hotep er að þukla fyrir sér í hálfdimmu, en í ritningunni er hugsunin orðin skýr, enda er hún búin, einmitt þessi hin sama hugsun, sem Gyðingar hafa erft að Egyftum, að þroskast í ein 2,700 ár; hjá Ptah-hotep er hún sem barn, en hjá Gyðingum er hún orðin sem fullvaxinn maðr.

Einhvern veginn stendr svo á því að bók þessi hefir ekki í flóðinu farist, og þó mun Nói gamli tæplega hafa haft hana með sér í Örkina. Einhvern veginn kemr það hér fram, að fleiri hafa trúað á einn guð en Gyðingar, að fleiri hafa haft siðferðislögmál, að fleiri hafa bækr ritað og það löngu áðr, þúsundum ára áðr en nokkur stafr ritningarinnar var ritinn.

Hvað skyldi nú rétttrúnaðrinn gjöra við þessa menn á þessum tímum. Þeir trúðu ekki á Krist, þeir voru ekki skírðir, ekki endrfæddir, ekki heilagir, höfðu enga hugmynd um endrlausn og mundu að líkindum ekki hafa trúað henni, þótt þeim hefði verið boðuð hún; þeir þektu ekki staf úr ritningunni, því að hún var ekki til fyr, en þúsundum ára seinna, en þeir trúðu því, að guð launaði hverjum, sem

breytti vel og réttvíslega. Eiga þeir í víti að fara? En nú er það athugandi að á þeim dögum var djöfullinn ekki til, það var fyrst farið að smíða hann 2,800 árum seinna eðr nálægt 500 árum fyrir Krist í fyrsta lagi, þegar Gyðingar komu úr herleiðingunni. Hvar hafa þeir þá átt að vera allan þenna tíma í ein 2,800 ár? Svari nú klerkar.

# Ritningin og fornleifafundirnir.

Hvað er sannað og hvað ekki?

Í ritgjörð einni í „Edinburg Review" leitast rithöfundr einn við að sýna, hvað þekkingu manna hafi farið fram við hina nýjustu fundi rúnaspjalda og annara fornleifa, er skýra sögu Gyðinga á gamla testamentistímanum. Segir hann, að þótt menn þegar hafi fundið margan leiðiþráðinn við sögu Gyðinga, þá höfum vér þó enn ekki fengið einn tíunda hluta af sönnunum þeim, sem menn hér eftir geta fengið af rannsókn fornleifa. En rithöfundr þessi tekr það ljóslega fram, að vér getum ekki heimtað eða vonast eftir sönnunum fyrir hverju eina í ritningunni, því hann segir að það sé langt frá að svo sé. „Það er nauðsynlegt," segir hann, „að vera ærlegr, að segja blátt áfram hvað það sé sem fornleifar þessar sanna og hverju þær mótmæla af ritningunni, og hverjar sögur þær eru, sem fleigrúnir Assýra færa oss af hinum forna sið.

Ásamt Hebreum trúðu Assýrar á bústaði hinna dánu í undirheimum, og á engla sem sendiboða af himnum ofan. Þeir, nl. Assýrar, höfðu spámenn og sjáendr; þeir sáu sjónir, og þá dreymdi drauma. Þeir sögðu undarlegar sögur af kraftaverkum, sem guðirnir höfðu unnið í fyrri daga, þó að aldrei kæmu þau fyrir á tímum þá lifandi manna. Persar trúðu á fornar hetjur, sem gengu þurrum fótum yfir ár og fljót, þeir trúðu á spámann, sem tók við lögmáli guðs á hinu heilaga fjalli, og á aðrar hetjur, er skipuðu sólinni að standa kyrri á himninum. Um alt þetta getum vér lesið í Zend-Avesta, trúbók Parsa, skrifuð 1000—2000 árum fyrir Krist, og í öðrum seinni ritum Parsa er sagt frá Messíasi, er koma ætti, frá upprisu hinna réttlátu, frá þjáningatíma hinna guðhræddu og sigri þeirra að lokum. Hin persneska sköpunarsaga er ekki hinn eini sambandsliðr milli hinnar hebresku og aryönsku trúar. Myndin af Satan, sem kemr fyrir í biflíunni, að eins í ritum eftir herleiðinguna til Persalands, var einn aðalhornsteinninn í trú Parsa.

En fornleifarnar mótmæla einnig mörgu. Þær hafa enn ekkert sagt oss frá aldingarðinum Eden eða syndafalli mannkynsins. En þær hafa

flutt barnið (Móses) í sefvöggunni frá ánni Níl til Euphratsfljóts; og svo finnst frásaga þessi aftr seinna í Zend-Avesta. Engar fornleifar tala um burtförina úr Egyftalandi. Engar sögur hafa fundist af Móses eða Davíð eða Salómon. Hið fyrsta sem menn þekkja til Gyðinga, svo framarlega sem ekki sé átt við þá í Tell el Amazna-fleigrúnunum, er frá tímum hinna seinni konunga þeirra. Og ef vér viljum fróðari verða, þá mun ráðlegt að leita í eigin fornleifum þeirra. Fleigrúnirnar gömlu og Móabítasteinninn sýna það, að það voru fleiri en Gyðingar á níundu öld fyrir Krist, sem trúðu á Jehovah, því að trúin á hann var einmitt almenn hjá þjóðunum á Sýrlandi og Assýriu.

Þá er það og athugavert, að fornleifarnar hjálpa oss ekki til þess, að skýra villurnar í gamla testamentinu.

Tímatalsvillurnar í konungabókunum geta stafað af röngum afskriftum um fleiri hundruð ár. En hinar sögulegu villur margra hinna yngri bóka, svo sem Esther, Daníel, Esra, Nehemiah eru verri að fást við og ekki hægt að gjöra sér aðra grein fyrir þeim, en að þær séu blátt áfram vitleysur.

Grein þessi bendir stuttlega á það, að fornsögurnar sem hafa verið eignaðar Gyðingum, t. d. um lögmálið á Sinai, um fæðing og uppeldi Mósesar, um Jehovahdýrkunina, um englana, um undirheima, um Satan o. s. frv., hafa alls eigi verið eign Gyðinga. Þegar sömu sögurnar finnast austur við Euphrat hundruðum ára áðr en nokkur Gyðingr var til, þá hljóta þessir yngri menn, sem voru ófæddir þegar sögur þessar gengu mann frá manni, þeir hljóta þá að hafa sníkt þær eða lánað eða hvað það nú kallast, hjá þessum eldri þjóðum. Eftir tvö til þrjú þúsund ára þögn eru nú steinarnir loksins farnir að tala og segja oss að klerkarnir hafi logið, vísvitandi logið.

En það fer sem oftar, að þegar steinarnir tala, þá neitar alþýðan að trúa. Það hefir verið svo um allar aldir, að menn hafa verið fúsastir til að trúa því, sem verið hefir lygilegast, þeir, sem mest hafa hræsnað og logið hafa verið álitnir bestu mennirnir. Hafi menn logið einhverju, þá hafa þeir menn verið í heiðri hafðir, en hafi þeir sagt satt, þá hafa þeir verið grýttir. En er ekki mál, að reisa skorður við þessu? Er ekki mál, að rísa upp á móti heimskunni áðr, en hún kæfir alla menn, er ekki mál, að reyna að fara að lyfta sér upp úr þessu hræsninnar, lyginnar og heimskunnar dýki sem menn hafa í legið. Hver vill vera með?

[Þýtt úr „Lit. Digest“].

---

☞ *Ég leyfi mér að leiða athygli þeirra kaupenda „Dagsbr.“ sem enn standa í skuld fyrir þenna árg. hennar, að því, að nú eru ¾ árg. út komnir. Ég hefi ekki búist við að menn gætu borgað blaðið fram að þessum tíma, en nú ættu skuldunautar þess að hafa það hugfast, að það er kominn tími til að sýna einhvern lit á borgun þess. Sá tími er og nú í hönd farandi—fyrir vel flestum—, sem ætti að veita þeim hægast með að borga það.*

*Sérstaklega er skorað á þá, sem skulda fyrir bæði árin, að draga nú ekki lengr að gera sitt til að tryggja framtíð blaðsins, með því að borga skuld sína.* G. M. THOMPSON.




G. M. THOMPSON hefir á hendi alla afgreiðslu á DAGSBRÚN og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans, bæði með pantanir og borganir


Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

“DAGSBRÚN“ kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.

| | |
|---|---|
| Árgangrinn kostar í Vestrheimi | $1,00 |
| Sendr til Íslands en borgaðr hér | $0,75 |
| Sendr til Íslands en borgaðr þar | Kr. 2,00 |

—— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. ——

Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, 572 Alexander Ave., Winnipeg, Man. Canada.

Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.

Prentsmiðja G. M. THOMPSON.